# Formale yfer Prophetan Daniel



Uppa þat at þeir Olærdu/og þeir sm̃ Sagnabækurnar ecki wita/nie kuña sialfer ad lesa/ mættu mz nockru mote skilia þssa Bok. S. Danielis/þa wil eg mz þessum Formala eina litla vnderuijsan framsetia.

Daniel er komen til Babilon i tyd Joachim Kongs

I fyrstu/huernen Daniel er til Babilon komen/nockrum arũ fyrer Foreydslu Jerusalems Borgar/a dögum Joachim/huern Nabugodonosor fangade og fiötrade/og willde hafa flutt hñ til Babylon/eñ ward þo hess siñis/at hñ liet hñ epter verda/Eñ flutte a burt mz sier hiña bestu meñ(a mzal huerra ed Daniel war)og so Kieren vr Musterenu. Vm þetta allt finst skrifad i añare Bok Kongaña/ xxiiij Cap. og i Cronicu Bokinne i xxxvi. Capitula.

I

S. Danielis framferde

J hinum fyrsta Cap. werdur hier i fyrstu framsett eitt merkeligt Dæme/vm Lifnad og fram ferde Danielis/huersu Heilagliga/ og Gudrækiliga hñ hefur lifat/og huad stöduga og sterka tru til Gudz ad hñ hafi hefur/a medal slyckra Ogudligra Heidingia/iafnframt þeim mörgu hrædeligum hneyxlunum/sm̃ hñ hefur i Babilon hlotid dagliga at sia og heyra. Og hefur þo stadfastur stadit og stöduglıga/og allt þetta sigrat og yferuñit i synu hiarta. Þar fyrer epter fylger iafnsnart/huersu hæleitar Gafur Gud gaf honum/fyrst andliga/prydande hñ mz Vijsdome og skilninge fram yfer alla meñ/ Þar næst lykamliga/settande hñ til hiña mestu Metorda/og werkade fyrer hñ mikil Dasemdar werk og stormerke/ huar mz hñ auijsar öllum oss/huernen hñ elske/og huad mikils hñ wirde þa alla sm̃ hñ ottast/og honum treysta/ Leider oss og lockar so mz slyku dæme/hid gödmanligasta/til Gudz otta og Truariñar.

Gudz gafur Daniele giefnar

II

Daniel werdur til Heidurs hafin

J hinum ödrũ Cap. wppbyriast vegsemdartignin Danielis/huad ed skiede af Kongsins Draume/huern Daniel af Guddomligre opinberan/fiñur aptur og vtþyder hñ. Fyrer þtta tilefne werdur hñ eirn Höfdinge yfer öllu Babilons ryke/Eirn Byskup og Höfudzmadur yfer öllum Vijsenda möñum og Spekingum. Huad skied er til huggunar Gydinga lyd/so þeir i siñe wtlegd ecki skylldu falla i öruilnan nie Oþolinmædi/ so sm̃ ad hefde Gud kastad þeim fra sier/og sijtt Fyreheit vt af Christo burt tekit. Þar fyrer lætur Gud eirn Herteken Gyding stiorna so mektugu Kongsryke/Og ei weittist sa Heidr neinum Babiloneskum mañe. Og þ er a ad sia/ad hñ hafe werit til þess eins fangadur og i burt fluttur/at hñ skyllde werda so megtugur Herra og Höfdinge/iafnuel yfer þeim sm̃ hñ höfdu i burt fært og hertekit. So Dasamliga breyter Gud wid sina vtualda/og weiter þeim miklu meira eñ nockur kuñe at öska.

Fiögr einualldz Kongaryke a Jördu

Eñ sa Draumr wt af Likneskenu er i Textanum af Daniele sialfum liosliga vtþyddur/vm þau fiögr einualldz Kongaryken/af huerium hid fyrsta war þeirra Assyriorum og Babiloniorum. Þad añat fra Medorũ og Serkia/Þad þridia Alexãdri hins mikla og Grickia/þat fiorda er Romuerια ryke.

Romuerια Ryke

J þessare vtþydingu og meiningu er allur Heimuren samhlioda / Giörningarner og Sagnabækurnar saña þetta nogliga/Eñ hñ talar mest og leingst vm þat Romuerska rykit/þar fyrer sklũ vier vädliga tilhlyda.

J nidurlagenu/þa ed Jarnleggerner taka at skiptast i sundur i tærnar/þar seiger hñ fyrer þria hlute/ wt af þui Romuerska rykenu. Hiñ fyrste er sa/at Tærnar eru adskildar edur sundurlausar/eñ hafa þo þra wppruna af Jarnfætenũ/ So sm̃ a Likama mansins eru sundurlausar Tærnar eñ eru þo af Fætenum Vaxnar/og heyra til Fætenum. So ward þat Romuerska rykit i sundurlaust/þa Hispania Frackland og Englãd komu fra þui/og fleire önnur Kongaryke/Samt er þat þo hier wt af waxit/og suo sm̃ önur Plantan/nidur plantad/og flutt(so sm̃ þeir seigia)translatum i fra þeim Grisku til þrar Þyduersku þiodar so at þat hefr eñ nu Art og Natturu Jarnsins/þuiat þat hefur eñ nu sina Rykisstiornar meñ og Rædherra/Lögmæl og Lagarieit/so sm̃ i fyrre tydiñe. Þar fyrer seiger hñ hier/þo at þat sie sundurlaust Ryke/ þa hefur þat þo Röt/Plantan edur legg Jarnsins.

i

Romanum imperium translatum a Grecis at Germanos

Þad añat er þetta/at slykar atskilianligar Tær sie olykar/sumar af Jarne/sumar af Leire/þat wtþyder hñ sialfur/at þat mun wera eitt sundurlaust Ryke/stundum styrkuara stundum weykara. Þetta hefur suo skied/Þuiad þat Romuerska rykit hefur optsiñis haft agiæta Keisara/ sm̃ war Karlamagnus og þeir þryr Ottones/og þra lykar/sm̃ oyferuiñanliger woru/Þar a mote hefur þat og stundum Veyka og Ogiæfusama Keisara haft/huerier optsiñis woru yferuñer og Sigrader.

ij

Þetta alltsaman er þui so sagt/at wier skulum wita/at þetta Romuerska rykit skal wera þat sidasta/og eingen mun fa þat foreydt og nidurbrotid/wtan Christus sialfur mz sinũ Ryke/Þar fyrer þo at so sie at marger Kongar hafe sig vppreist i mote þm Þyduerska Keisaradomenũ/og þo at Tyrken beriest odlega honũ i mote/og hafe(kann wera)nockrar Orustur vñit/edur kuñe ad wiña/þa skal hñ þo samt þessa Jarnröt og Plantan ecki yferuiña nie vpprœta/Þetta Ryke mun wara allt til hins sidasta dags/ huersu weykt sm̃ þat er. Þui Daniel Lygir ecki/og Raunen hefur allt hingat til hier wm witne giefet/bæde wm þa Romuerska Paua/og so önnr Kongaryken.

Romuerska Ryke skal wera þad sidasta

iij

Þad þridia er þetta/at þessar sundurlausar oiafnar Tær sie þuilykast sm̃ samanblandadar/og so sm̃ huer wid adra samteingd. Þad wt þyder Daniel sialfr so/At þetta Ryke mun werda so weykt Ryke/at þat mun mz Vinattugiördum og Mægdum hier og þar i hia hinum og ödrum Konungum ad sier hnyssa og sier styrks leita/eñ þat mun þo ecki hialpa nie tryggeligt werda. Og mun so alleinasta/fyrer Gudz Fyrerhyggiu hafa Styrk og Sigur/þegar aliggr.

Eñ þat Fiallit/af hueriu Steirnen ward afsliten an mannligra Handa/þat wtþyda sumer af þre Heilögu Jomfru Mariu/af huerre Christr er fæddr/fyrer wtan Mans til werkan / huer wtþyding at ecki er Ochristelig. Eñ þetta fiall ma og eirnen wel merkia giörualt Gydinga Ryke og folk/ af hueriu Christur er komiñ/huerra Holld og Blod hñ er/eñ er nu fra þeim burt slitiñ/ og komen a medal Heideña þioda/ og er so orden og mun blyfa eirn DROTTINNN og Herra allz Heimsins/vm öll þesse fiögur Kongaryke.

Fiallit af hueriu steirnen war sliten

III

Þryr meñ af glodandi Ofne frelsader þm Hertekn Gydingum til huggunar

J hinum þridia Cap. skrifar hñ enn wm annat harla stort Dasemdaruerk Truariñar/Sem er/ ad þeir þryr Meñ frelsast af breñanda Elldzofne/huar af Konguren kiemur til slykrar Gudz widurkienningar/ad hñ mz sinu Rite/ prysar og wegsamar Gud wm allt sitt Kongsryke. Huad og so eirneñ skied er/ þeim Herteknu Gydingum til huggunar/huerier asamt mz þra Gude ölldungis forsmader og fyrerlitner woru i Babilon/a medal Vykingaña og Stwrgodaña. Eñ hier werdur þra Gud haleitliga prysadur / fram yfer alla adra

adra Gude/So ad þeir skule þui stadpastliga trua/ad hũ bæde giete og so wille hialpa þeim/a sinũ tyma/
Enn þess a mille þa skulu þeir hallda og hugga sig wid slykt hũs Dasemdar Undur og Stormerke. IIII

J hinum fiorda Cap. stendur eitt merkeligt Epterdæme Gudligrar Reide/ i giegn þm grimu Valldz stiornar mõnũ og Vykingũ. Þuiat þar verdur sa hĩn myckle og mattuge Konungur sviptr synũ skilninge og verdur so vit laus og olmur ad meñ verda ad binda hũ sem añan Olmañ hund mz Vidium/ og sleppa honum wt/ þt meñ gatu hũ ei hia mõnũ lidit. Nu þiker oss þtta litils vert/a medan þ stendur i Bokiñe. Eñ hefþ duss vier verit þar i hia/ og sied þar vppa/þa hefþdum vier sied eirn hrædeligañ og Ognunarsamligañ Gudz Dom/So ad sier huer Madr hũ hefþde matt af hiarta aumka sig yfer alla Valldz meñ og Vykinga/ad so þũgr hefndar Domur henger yfer þm/þar sem þr misbreyta synu macktar vellde. Slykt er og eirnen i þañ tyma skied til huggunar þm vtlægu herteknu Gydingum/ so og nu/og iafnañ hier epter/ollum þm til huggunar sem orett lyda og af þm Ranglatum verda ofsokter/So ad þr siae þ/ad Gud giete og vilie hefna vor a vorum Ouinũ/ þyngra og frekara eñ vier oskũ. So sem sa fimtugaste attunde psalmur seiger. Sa hĩn Riettlate mun mz glede sia hefndina/og bada fætur syna i blode þss Ranglata. Þar fyrer eigũ vier slyka Vykinga ei ad eins mz Þolinmæde ad vmbera/ helldur og so eirnen aumka oss yfer þa/vegna þss hefndar Doms sem þm yfer hofþde hanger/ og bidia Gud af hiarta fyrer þm/ lyka so sem sa gode Daniel hũ hier giorer/ hũ angrar þ/ad yfer Kongeñ (huer ed hũ hiellt þo herteknũ og hũs Fodur Land hafþde foreydt) skyllde slykt Hormung ganga/ og oskar hana helldur hũs Ouinũ

Tyranna strapp af Gud

Gud hefner sinna Vina

Christner skulu lyda wonda Valldzmeñ og bidia til Gudz fyrer þeim

Hier aptur a mote/er þtta ollum godum Herrũ og Hofþdingium ein huggunarsamlig og fogur lyking/ad Gud DROTTJNN lyker þeña ogudliga Konung wid eitt fagurt Trie/ huert ed fæder og nærer oll Kuikindi/og hlyfer þeim vnder synum greinum og sinum Skugga. Med huerre fyrermyndan Gud hũ auglysar/ ad hũ fyrer Yfervalldzstiettena gefr frid og Spekt/ Hlyfd og hialp/ Biorg og næring/og ollu þssu stundligu lyfe vid mackt hallde. Og ad hm þocknist þ miog vel/þegar eirn Hofþdinge edur Valldzmadur stendur truliga i þssare siñe stiett/ þt hũ kallar þ fagra Auxtu/ fagrar greiner/fogr laufblod/þ er at skilia/Þad eru kostulig Dyrmæt god verk. Med þui þa ad Gude eru þau so þægelig/ ad hũ so prydelega wtmalar/ prysar og prydir þau/ Þa skylldu Herrarner mz lyst og Elsku fram fylgia synu Embætte/ huersu erfidissamt og torfuellt sem þ verda vill. So eigũ vier og ecki ad ackta Hreckuyse Valldzmañaña/ helldur huxa huersu kostuligt og nytsamligt Embætte þr hafa af Gude/oss til gagns og goda sett og skickad

Huggunar fyrer myndan godra Valldzmaña

Velgiorningar sem Gud weiter mõnum fyrer Valldzstiornena

J fimta Cap. kiemr fram eitt añad Epterdæme i giegn þm Ranglætis Vykingũ. Þuiad þ hid fyrra epterdæmit er nockut so lydanligt/af þui ad sa Kongr leid Hirtingena og snerist til Gudz mz sañe Jdran/Lytelæte og Vidurkieñing/So at hũ er fyrirlaust af einum Vykinge orden eirn sanheilagur Hofþdinge. Eñ hier werdr sa forherte Jdranarlause Vykingr/werande athugalaus og gladr i siñe Hreckuyse/ reisir wægdarlaust/ so at hũ misser i einu Aund og Lyfania/Lond og Lyde/huad eplaust ollum þuilykum Ranglætis Vykingum er til Skelfingar skrifat. V

Baltazar Kongs Strapp og Hirting

J siotta Cap. er eitt lystiligt og fagurt Epterdæme eins gods agiætz Kongs/ huer ed elskade Daniel/ Þess hlaut Daniel at gialda af hinum odrum Storbockum i Kongsins Garde/þeir syna honum eitt Hofgardzstycke/so at hũ werdr vm syder kastadr i Leona grofena. Hier hafa þeir aumu Herteknu Gydingar eñ a ny u hrygguer ordit. Eñ Gud audsyner hier eñ syna nalægd hid huggunarsamligasta / og snyr vm Hiole nu so fynliga/ad Danielis Ouiner wrdu sialfer vpp at eta þ þeir hofþdu hm matbuit/ so sem þ seigist i hinũ vii. Psalme. Sia/hann hefr illt i sinne/hũ geingr mz Ogiæfuna eñ hũ mũ fæda Lygenar. Hũ hefr Gryfiuna wtgrafit og wtfært/og er fallen i þa grof sem hũ giorde. Hũs Olucka mun koma honum i koll/og hans Reingiende i hũs Huirfel. VI

Daniel kastast i Leona grofena

So er nu Lyferne Danielis eckert añat eñ eirn skiær og klar Speigell/ i huerium wier siaum Truarinnar bfratt[illegible] og heñar Sigurvniñg fyrer Gudz Nad/ i giegn ollum Dioflum og illum mõnum/suo og heñar Auoxt og Nytsemder/sem hun fyrer Þolinmæde og Krossen werkar/bæde fyrer Gude og mõnum.

J Siounda Cap. taka til þær Sionernar og Spadomarner vt af þeim epterkomande Kongarykium/ hierdzlis vt af Rykenu Christi/huers eins wegna alleina at allar þessar Sioner skied hafa. Og er i fyrstu merkiande/ad þau fiogr einvalldz Kongaryken/ sem hũ hier fyrr i odrum Cap. synde i þre myklu Lykneskiu þau eru somu lystur hũ hier at nytu i añare mynd/einkum fiogra dyra/hellst wegna þess fiorda Dyrsins/sem er/þess Romuerska Rykisins/vt af huerio hũ seirna meir will flerra seigia/Þuiad vnder þui sama Romuerska Ryke/attu at skie þeir allra stærstu tilburder/sem eru þesser/Hingadkoman Christi/ Mannkynsins Endurlausn/og Ender Veralldarinnar. VII

Fiogr Dyr merkia fiogur Kongaryke

So er nu þat fyrsta Dyrit/Kongs Rykit i Assyria og Babilon/þat er Leonirina/hafande tuo Arnar vængena/huiat þetta Rykit war þat agiætasta og bezt/og(so sem adr war sagt)eitt Gyllinne Ryke hia i hinũ odrum. Tueir Vænger/eru tueir hluter Rykesins/sem er Assyria og Babilon. Og þui werdr eitt Mans hiarta gefit/og þat stendur a sinar Fætur/Þuiat ecki eitt af hinum Kongarykiunum hefer slykan Konung haft/sa ed so dasamliga hafe komist til Gudz widurkieñingar sem þesse/eige helldr hefur nett fra so marga merkeliga Heilaga og hyggna meñ haft i Kongsins garde/so sem þtta Kongs rykid hafde.

Leon þat fyrsta Dyrid medr tueimr Vængium

Þad añad Dyrid er Biarndyr/þ er Konungs rykid i Persia og Medea/ huert ed Babilons ryke vmturnadi/ og af þui reif þss Vænge. Og þ hefur mitt i mille siña Taña þriu Rifbein(þ eru þriar storar og langar Teñur)þ merker þria hina hellstu Konunga/sem er/Cyrus/Darius og Xerxes/huerier mykla hlute giordu i þssu Konungs ryke/ Og atu mikid kiot/þ er/ þr brutu vnder sig morg og meckug Lond og þioder.

Biarndyr þ añad Dyrit

Þad þridia Dyrid er Pardus/med fiorũ Vængiũ og fiorũ Hofdũ/þ er ryke Alexandri Magni af Gricklande/ wr huerio/þar eptera/vrdu fiogur Kongaryke/so sem vier faum ad heyra i næst epter fylgianda Cap.

Þat þridia Dyr Pardus

Þad fiorda Dyrit sem Jarnteñurnar hefur/þat merker þat sydasta Ryke/sem er þ Romuerska Rykit/mz huerio Verollden skal eirn enda hafa/Þui talar Daniel hier margt wm þañ sydasta Dom/ og vm Ryke þra Heilogu/huert ed koma mun epter þetta Kongaryke.

Þat fiorda Dyr hafde Jarn teñr

Eñ hũ vtmalar þad Romuerska Ryki mz slykum hætte/at þat skule i fyrstu sundurskiptast i tiu Kongaryke/þat eru þau tiu Hornen/sem er/Syria/Egiptaland/Asia/Grickland/Affrica/Hispania Frackland/Valland/Þyskaland/England.

Roma ryke skiptist i sundur

Og þ litla Hornit/sem þriu þau fremstu hornen af þeim tiu skal afbriota/þad er Mahomet edr Tyrkeñ/ huer ed nu hefur Egiptaland/ Asiam og Grickland. Hũ seiger og so/ ad þtta litla Hornid mune stryda a hina Heilogu/ og tala Gudlastaner i giegn Christo/huad vier reynum/ og siaum fyrer vorum augum/

Mahometh Tyrken

 Þuiad

Þuiat Tyrken hefur mikin Sigur vnnid a þeim Kristnu/og afneittar Christo/og vpphefur sinn Mahomet yfer alle hluti/Þar fyrer höfum vier vissuliga ad vænta hins sydasta dags/þat Tyrkinn mun ecke fleire Hornen afbriota enn þesse þriu.

VIII

*Sierlig Syn sem ahrærer Gydinga alleina*

J attunda Cap. hefr Daniel eina sierliga Syn/huer ed eige snertur allan Heimen/so sem þesse fyrerfarande Synen/helldr ad eins hans eigit Folk/Gydingalyd/synande þeim huernen þeim skule ganga/fyrer þad Romuerska rykit/og adr enn þad Christus kiemur/einkum vnder þui þridia Rykenu/Alexandri hins mykla/so at þeir hefdu einn at nyu eina Hugggun/og örualnudust ecki i þeim Harmkuælum sem yfer þa skylldu koma/lyka so sem Christus munde þa enn yfergiefa/og ecki koma. Og Daniel vtleggr at wysu sialfr Synena/Þat

*Hrwturin*

Hrwturen mz tueimr Hornunum sie Kongurinn af Medea og Persia/Enn Kiarnhafuren sie Alexander hinn mykle/þesse wann Darium þann sydasta Kong i Persia/og braut vnder sig hans Ryke. Og Daniel seiger/at Kiarnhafuren hafe werit so sem flugande/at hann hafe ecki komit wid Jördena. Þuiat Alexander hafde

*Kiarnhafuren*

so fliotan framgang/at a Tolf Aarum lagde hann wnder sig allan Heimen/þuiat hann tok Kongdomen a tuttugasta are syns Allдurs/enn hann Andadist þa hann hafde tuo Vetur hins fiorda tugar. So ad sanliga(epter Ver alldarinnar plagsid at tala)þa hefur eingen meire madr a Jördu komit/og ei mun helldur koma/enn Alexander war.

*Vt af Alexandrys Ryke/eru orden fiögr Ryke*

Enn þat sem wex fliott þat forgeingr skiott/Þuiat hans Kongsryke nidurhrapade vnder eins og hann Andadist/og vr þui vrdu fiögr Kongaryki/Syria/Egiptaland/Asia/Grickland.

Nu lætur Daniel þessetuo/Asiam og Grickland hia lyda/enn talar wm hin önnr/Syriam og Egiptaland. Þuiad Gydingaland liggr a mille þessara tueggia Landa/og hefr Syriam til Nordurs/enn Egiptaland til

*Gydingaland liggr a mille Syrlandz og Egiptalandz*

Sudurs fra sier/huer tuo Ryke eylyft Stryd hölldu syn a mille. Þar fyrer woru Gydingar suo sem a mille Hurdar og Gætta/þungliga af huerutueggium Plagader. Stundum fiellu þeir i lid mz Egiptskum/stundum mz Syrlenskum/huort Rykit sem þa war ödru yfersterkara. Og vrdu opt ad giallda sinar nalægdar/so sem þad skiedr i almenneligte Ofridar styriölld. Sierdeilis þa sa Skalkr ward Kongr i Syria/huern Sagnabækurnar

*Antiochus Epiphanes Ryktygr*

nefna Antiochum Epiphanem edr þann Göfga/hann þiade Gydinga grimmliga/mz Morde og manndrapum/so sem einn Diöfull. Gudz þionustugiördena i Jerusalem tok hann af/saurgade Musterit/og rænte vr þui öllum Dyrgripum/vppreiste Afgudadyrkaner og Skurgod þar inne/Rak i burt og Drap kiennemennena/og alla þa sem ei willdu honum hlyda. Hann willde endeliga giöra einn atrunad af öllum truarbrögdum/og þat skylldi wera atrunadur Gricka. Til þessa weittu honum styrk nockrer wondet menn/og Truar nydingar vt af Gydingum/þeir ed mz ödru mote kunnu ei vpp at komast/So sem lesa ma i fyrstu Bok Maccabeorum i fyrsta Cap. Enn hans ædi stod ecki leinge yfer.

*Lytid Horn*

Vm þennan Antiochum talar Daniel hier/at epter Alexandrum/vt af einu fra fiögra Hornanna/sie eitt lytid Horn komit/þad er Antiochus Epiphanes/af þui Hornenu Syria/Hann ward Megtugr i mote Sudrenu Austrenu/og i mote þui werduga Lande/þat er Gydingalande. Þuiat Antiochus tok fra Egiptalandz Kongum mörg Lönd og Borger/mz Suikum og Prettum/so sem hier seirna stendr i ellefta Cap. Hann kastade mörgum Stiörnum til Jardar/þad er/hann drap margan Heilagan mann i Gydingalande/Nidurbraut og saurgade Þionustugiörd Gudz a Himnum/i Musterenu/og insette þar Skurgodadyrkaner.

*Gud wppuakte Judam og hans Brædr i mote Antiocho*

J mote slykum Fianda/vppuakte Gud Judam Maccabeum/og hans Brædr/þeir hielldu Stryd/og vnnu miög mikel frægdarnerk/og a fim Aarum felldu þeir af Ouinunum nærre tuisuar sinnum Hundrad þusunder Manna/sem lesa ma i annare Bok Maccabeorum. Þeir hreinsudu Landit og Musterit/og færdu alla hlute aptur i lag/so sem hier stendur i Textanum/ad Musterit skule epter tuo þusund og þriu hundrud daga hreinsat werda/huer dagatala at giörer sex ar og eirn fiordung ars þar til/so langan tyma plagade Antiochus Gydinga/og andadist a þui sama siöunda are. Og so samhlioda þesse tala miög wel wid þat sem stendur i Bokinne Maccabeorum.

Þar fyrer seiger Eingillen hier/ad Kong Antiochus skule miken skada giöra Gydingum/og at hann mune Grimmr wera og ecke skamast syn neinnrar ohæfu. Og Sagnabækurnar wotta/at hann hafe haft eitt skammarligt framferde/og lifat i allskyns liotum girndum. Enn hann mun(seiger Eingellinn)ann handa i sundurlamenn werda/huad og skiede. Þuiat þa hann for i Persidem Fiar at afla/baud hann sinum Strydzhöfdingia Lysias/at

*Lysias*

hann skyllde alldungis afma og eydeleggia Jsraels lyd/Enn sem hann fieck eckert Fie/og hann spurde þar mz ad Judas Maccabeus hafde a flotta rekit Lysiam og fellt hans Herlid/þa ward hann siukr af mikillre Reide og ohofinmæde/Þuiat þetta hafde ecki tekist epter hans willia/og andadist so i myklum Harmkuælum og Hugar angre i framanda Lande.

Eins so skal þeim Ogudligu Vykingum ganga. Þuiat þesse Antiochus er hier öllum Ogudligum Kongum og Höfdingium fyrer siener og til epterdæmis settur/sierdeilis þeim sem æda i gegn Gude og hans Orde.

*Antiochus merker Antachristum*

Þar fyrer hafa aller Kiennefedr i fordum tyd kient og halldit at þesse Antiochus sie Figura og fyrermyndan Antachristsins/og þeir hafa hitt þar riett a. Þui þat war wel widurkuæmeligt/at slykr skiemdarskalkr og so grimmur Vykingr/sie til þess wtualen/at wera fyrermyndan þess sydustu Suiuirdingar/so sem þat nockt ord i hinum xij. Cap. merkia þetta hid sama/og þad heimugliga auglysa.

IX

*Danielis Bæn*

Niunde Cap. hefr fyrst eina miög fagra og agiæta Bæn/i huerre Daniel bidr fyrer synu Folke/sem i Babylon war Herteked/og fyrer Borginne Jerusalem og Musterinu/ad Gydingar mætti xm syder heim aptur komast/og at nyiu vppbyria Gudliga þionustugiörd. Þesse Bæn ward þegar bænheyrd/og auk þess sem hann bad þa werdr honum openskaart giört/huersu mörg ar þar skulu wera/þangat til Christus hann kemr/og wppbyriar sitt eilyfa Ryke Og þetta er merkelig og mikil opinberan vt af Christo/sem so glöggliga akuedr tyman nær Christus skyllde koma.

*Siötyger Vikur Danielis lxx. Vikur eru fiögr hundrud og niutyger ar*

Þessar siötyge Vikur sem Eingellin framsetur/þa hallda aller Lærefedr mz einu mote/at þad sie ecki dagtölu Vikur/helldr arauikur/þat er/sierhuer Vika hefr vij. ar/enn ecki siö daga/so sem raun giefr vitne wm/Þui siötyger daga Vikr/eru ecki full tuo ar/slykur tyme er ecki so siorligr/til slykrar dyrdligrar opinberingar. Nu eru siötyger Vikr fiögr hundrud og Niutyger ar. So leinge skylldu menn þa enn vænta Christz/og at þeim tyma lidnum þa skyllde hann vppbyria sitt Rykt.

*Nær hær lxx. Vikr skulu vppbyriast ad telia*

Hier er nu adspyrianda/Nær og a huerium tyma skal vppbyria at rekna þessar siötyger Vikr? Eingillenn vtskyrer þat/og vppbyriar a þui Are/þegar ordit wtgeingr/þad Jerusalem skule vppaptur byggiast. Þuiat so seiger hann/Fra þeim tyma/þegar þad ordit vtgeingr at Jerusalem skule vppaptur bygd verda/et cet. Þesse Ord hafa hiner og adrer ymisliga wtlegt.

Vor meining er þesse/at þessar siötyger Vikur skulu hefiast a ödru are Darij Kongs/huer ed kalladr var handalangr. Þuiad a þui sama Are skiede ord DROTTJNS fyrer Prophetan Haggeum og Sachariam/

bodade

biodande Zorobabel at vppbyggia Musterit/so sm̄ sia ma i fyrsta Cap. beggia Prophetañа. Þetta hid sama baud og eirnen nefndr Darius/og hn̄s bifalning vm þetta efne gieck og vt/Esdre vi. Þuiat i fra þui fyrsta are Cyrus huer ed lausa gaf þa Hertecknu Gydinga/allt til añars arsins Darij/þa eru xlvi. ar / a huerium tijma þeir ecki mattu nie þordu neitt vpp at byggia/wegna forbodz Cambyses sonar Cyri/so ad þeir ðruæn-tu at mestu Musterisins vppbyggingar/og sögdu/sm̄ þar seigist Haggei i. Ecki er eñ tijmen komeñ at vppbyg-gia Husit DROTTINS.

Og wera kañ/at þetta sie þau sex og fiörutijger ar/vm huer ad Gydingarner sögdu til Christum/Joh. ij. Þetta Mustere er wppbygdt i xlvi ar/og þu wilt byggia þat vpp aptur a þrem Dögum? Þad er/i sex og xl. ar leitudu menn wid/edr enn meñ kynne rietteliga vppbyria at vppbyggia þetta Mustere/so torfell-ega veitte þat. Þuiat þar epter vard þ miög fliotliga vppbygt a fiörum Aarum/Esdre vi.

So skipter nu Eingillen öllum þessum siötijger Vikum i þria parta. A þeim fyrstu siö wikunū/þat er/ fra ödru are Darius Kongs allt til hins fertugasta og niunda ars/þa skulu Mwrueggerner og Strætеn( i Jerusalem )vppaptur byggiast/a einum Hormuligum tijma. Þuiat þ gieck þeim miog torfuelldliga/af þui ad nalægar þioder hindrudu þeirra erfide so sm̄ Nehemias skrifar i. Cap. Huer ed a tuttugasta Are Darij/ þ er/a attianda Aare epter þ at ordit var vtgeingit fyrer Haggeū/þm til hialpar vr Persia var sendr af Da rio/edr kann vera helldr/millideliga af honum laus læten. Þuiat Eingillinn i hia Daniele/Cap. x. klagar at Höfdingen i Persia hafe sier a mote stadit i Kongsins Garde/eirn dag og tuttugu/meinande( kañ skie )Ein gellega Daga/þat eru tuttugu og eitt Aar.

Danielis Vikr skiptast i þrent

Þui næst/epter tuær og siötijger Vikr( seiger hn̄ )mun Christus werda lijflatinn. Þessar lxij. Vikr og hin ar vij. eru nu og lx. Vikr/þad er/fiogr hundrud þriu og attatijger ar. Þa er enn epter ein og hin seinasta Vikan/af þeim lxx. þad er vij ar. Þuiat Eingillen seiger lioslliga/at Christus skule ecki lijflatast i midre seinustu Vikuñe( huerrar meiningar wier hofum fyrr weit )helldr epter tuær og sextijge Vikr. Þad er/a fyr-sta are/edr i vpphafe þrar seinustu Vikuñar/a huerre( seiger hn̄ )hn̄ mun stadfesta mörgum Sattmalan. Þui at i þessare seinustu Vikuñe/edr a þeim siö arunum/vtbarst Euangelium kröptugliga/ mz teiknum og Stor merkium/fyrer þañ Heilaga Anda/og margar Þusunder af Gydingum og Heidingium sneru sier til Christū so sm̄ wottar Lucas i Giörninga Bok postulañа. So at þesse Vika ma wel kallast paskawika/fra Paskade-ge/Þat er/fra wpprisuñe Christi.

Christus lijflaten i vpphafe sijdustu wikuñar

Paska Vika

Eñ i midre þre Vikuñe/mun Mataroffrit og Fornfæringarnar afleggiast. Þuiat so nær a þui þridia are epter vpprisuna Christi/ward Postulañа Concilium edr Samfundr hafdr Act. xv. og Moses Lögmal op-inberl ga aftekit/og Heidingiar/Ja/og so eirnen aller Gydingar/sagder frij og frialser fra þui/suo at þad skyllde ecke halldast/og þat wære og ecki naudsynligt til Saluhialparinnar/þar mz obæreligt/so sm̄ S. Petur Predikar i þeim sama stad. So er nu þad audsynt at þessar siötijger Vikr/endast mz þui siounda are epter wpprisuna Christi/Þa war vtgiört mz þa forhertu Gydinga/og þa hardsuirudu Jerusalem/og Postularner sneru sier til Heidiña þioda/So sm̄ S. Pall seiger Act. xiii.

Mosis Lögmal aftekit

Ending þra lxx Vikna

Hier vt af siañ wier/ad Eingillen kallar Christum HAVFDINGIA/ ei strax epter Skirnena edr hn̄s Predikunar embætte( hueria meining wier hofum adr hafft )helldr epter hn̄s wpprisu / þa ed hañ fyrer suna Pijnu iñgieck i sijna Dyrd/og situr til Gudz hægre handar/og er orden DROTTENN allra DRottna. So sm̄ þad og eirnen aller Konungar og Höfdingiar i Ritninguñe / þr nefnast Höfdingiar ad vppbyriadre fra Rijkisstiorn. Þuiad epter sijna Skijrn/hefr hn̄ werit teirn Þienare Vmskurnarinnar. So sm̄ S. Pall hn̄ sei ger til Rom. xv. ad vijsu/allrar Verrolldarinnar Þienare/mz sinne Pijnu.

Christus nefnist Höfdinge epter sijna wpprisu

Eñ þar Eingillen seiger/ad Christus skule vpprætast/og wera ecki meir/Þar alijtr hañ ord Esaias i liij. Cap. þo Bokstafferner sie adrer/Hn̄ er i burt slitin af Jördu lifande maña. Og er þesse meiningen/at Chri sti Ryke skule wera/ eitt nytt Andligt Himneskt Ryke/hafande allz eckert/huorke af Moses Lögmale ne af Verolldarinnar Ryke/Helldr mun hn̄ yfergiefa allt þetta/ og vppbyria og hafa/eitt annat nytt eilijft Him neskt Ryke. So sm̄ þad sa sextande Psalmr seiger/Jeg wil ecki fornfæra fra dryckiaroffr og Blöd / og ecke taka þra nafn mier i munn. So sm̄ þat aller Prophetarner plaga at tala vt af Rykenu Christi.

Rijkit Christi eitt andligt Ryke

Þessum Reikningskap og Aara tölu er hægt saman at koma wid annara manna Reikning/sm̄ er/Fra ödru Aare Darij allt til Alexandrum Magnum eru Hundrad fiorutijger og fim̄ Aar /so sm̄ Metasthenes hann skrifar/Fra Alexandro til Hingatburdsins Christi/eru ccc. og v. ar/Sumer reikna ccc og x. ar. Fra Hin-gatburdenum Christi allt til hn̄s Skirnar/eru xxx ar/þui næst eru iij. Aar til hn̄s Pijnu. Þetta samanreik nat giörer allz fiogr Hundrud Attatijger og iij. Aar/Þad eru niu og Sextijger Vikr/Eñ þau fim̄ Aaren sem yfer eru/og odrū ber ecki saan vid oss/ þat skulum wier ei læta oss willa. Furdande er / at Heidinna manna Historiur og adrar Sagnabækr werda so giörla samhlioda med Daniele.

SA Tiunde Cap. er eirn Formale yfer þañ ellefta Cap. Þo skrifar Daniel þar iñe nockut serligt vt af Einglunum/þat sm̄ huerge annarstadar stendr i Ritningunne/sm̄ er þetta/at þeir gödu Einglarner ber-iast wid þa enu wondu/wernde og wardueite Mennena. Hann nefner og þa vondu Einglana Höfdingia/ Þar hn̄ seiger Höfdinginn wr Gricklande

X

Embætte þra godu Einglaña

Vt af hueriu merkia ma/huernen þat tilkiemr/ad i Hofgördum Konunga og Höfdingia so oskickanliga og wondzsliga tilgeingr/og þad hid goda forhindrast/Strijd og öñr Olucka wppbyriast. Þuiat þar eru Diöf larner/wpphuetia og frambryna Meñena/weita hömlun og hindran/so ad eckert takist Luckusamliga. Til dæmis ad taka/Þa Gydingarner skylldu lauser giefast af Kongunum i Persia/fra Babylon/ þa gieck þetta so tregliga/Samt þo ad Konungarner giæfe þeim giarna gott leyfe heim at reisa. Þar fyrer seiger Eing-illen hier/at hn̄ hafe nockut at sysla/og hliote at beriast wid Höfdingian i Persialande/og hn̄ sie vggande vm þat/ef hn̄ fer i burt/þa mune Höfdingen af Griklande koma a medan. Sm̄ hn̄ segde so. Nær ed wier still um eina Ogiæfu/þa kiemr Diöfullen iafnan añare af stad/werde þier lauser wr Babylon/þa munu þr enu Grisku þuinga ydr. Eñ hier er nog wmtalat/þuiat þar heyrer meira tijma wm til/at tala fleira þar wt af.

Huar fyrer þ so illa tilgeingr a Herra gördū

Ellefta Cap. Fyrerspaar Daniel sijnu Folke/Gydingalyd/hartnær lyka sm̄ i vij. Cap. sagde hn̄/wt af A-lexandro Magno/og þeim tueimr Kongarykium Syria og Egiptalande/Þetta giörer hn̄ hellst wegna An tiochus Epiphanes sm̄ Gydinga skyllde hardliga plaga. Þeñan wtmalar hn̄ so og snyr þangat sijnū ordū at hn̄ wnder Personu Antiochi wtskrife /og wppmale Antachristen sialfan/Stingande so Fingre a/ a þessa wora sijdustu tyd/i mote þeim sijdasta deige sialfum. Þuiad aller Kieñefedr wtleggia mz einu mote þennan Spadom wm Antiochum/wt af Antachristenum. Og sialf orden Danielis giefa þeñan skilning/so at wier hliotum at hallda/at hn̄ talar ecki einungis wm Antiochum/helldr slær hañ þeim Antiocho og Antachriste i

XI

Antiochus hin̄ göfge

Daniel slær til samans Antio-cho og Anta christenum

og/eitt

eitt/og giörer so williande syn liosu Ord/vandskilin.

Þesse sierligustu Persa Kongar

Xerxes

Alexander

Þryr Kongar seiger hn̄ munu en̄ standa i Persia. Þat er ecki fyrer meiningar/ at Persialand skule hafa so fa Konga/ so sm̄ Judar wtleggia þ/ þuiat þar hafa werit minst tiu Kongar /En̄ þesser fiorer seigiast þui adstanda/i Persia/at þeir hafa werit sierliger i hia hinum ödrum/sm̄ war/Epter Cyrum kom Cambisus/Darius/Xerxes þesser eru þeir sierligustu/Og þesse Xerxes war fra ryckastr/hn̄ for Herferd i Grickland mz Otelliande Her/enn hn̄ fieck Osigr/og komst sialfr wndan nauműliga mz Skōm og Sneypu. Epter þessa kom Alexander og hn̄s fiorer epterkomendr/enn ecki af hn̄s ætt nie Blode. A

ÞEtta er wpphaf fra tueggia Kongarykian̄a/Syrlands/og Egiptalandz/ huer ed syn a mille Rifust og bördust. Hier werdr ad setia nöfn Konganna/so sm̄ a eitt Spialld edr blad/so at men̄ þarf ecke willt i Historiunne og Textanum. B

# Alexander Magnus




Epter Alexandrum/ward Kongsrykid i Egiptalandi miög megtugt/vm huert Daniel talar hier. Sömuleidis Kongsrykit i Syria/so at huerke fieck þar annat yfervunnit nie wnder sig brotit / huersu opt sm̄ þau reyndu þar til/og willdu þat giarna giört hafa. C

Antiochus Theos Ptolomeus Philadelphus

ÞAd fyrsta Stryd hofst a mille fra Antiochus Theos og Ptolomeus Philadelphos/Enn sm̄ þeir höfdu lengi Bardaga att syn a mille/þa sættust þeir. Og Ptolomeus Philadelphus war sierliga agiætur Kongr/hn̄ elskade Fridseme/og allshattadar Jþrotter hn̄ hiellt marga lærda Menn / og samansafnade fiölda Boka wr öllum Heime. Gydingum weitte hn̄ mykla Velgiörninga/ Musterit og Gudliga Þionustugiörd til Jerusalem prydde hn̄ störliga/So at eg helld/ad hn̄ sie einn af þeim Heilögu Konungum.

Bernices

Laodicea Seleucus Gallinicus Antiochus Hierax

Þesse Ptolomeus hn̄ gipte syna einka dottur Antiocho/ hun hiet Bernice/ til stadfestu fra Sattargiördar/og andadist sydan þar epter. Enn Bernice/so sm̄ eins megtugs Konungs dotter / og þar med nu einnen wolldug Drottning i Kongsins Garde/stundade þar epter/ad hennar Son yrde Erfuinge Rykesins i Syria. Enn þat brast. Þuiat Laodicea/ su fyrre Drottning Antiochi Thei/og hennar tueir Syner Seleucus Gallinicus og Antiochus Hierax/ woru gramer henne og hennar Syne/ og hugdu sialfer ad erfua Rykit. Og Laodicea gaf sinu Herra Antiocho Theo Olifian/þui næst egnde hun Sonu syna i mot Bernice/ fra Stiupmodr/ Þeir rætu hana vr Lande bur / og dræpu hana vm syder/og hennar Son/og alla fra þienara. Þet a meinar Daniel hier/þar hn̄ so seiger/Enn hun mun ecki blyfa wid Magt þess Armleggsins/þar ad auk mun hennar Sæde ecki standa/ helldr mun hun mz Barnenu/ Þiendrunu/Ja/og so mz hennar Herra Konge/ af huerium hun er orden suo Megtug/ofurseliast i Daudan. D E

Ptolomeus Euergetis

Slyks Mandraps hefnde Bernice broder Ptolomeus Euergetes/hn̄ atte Orustr wid þa Brædr bada/og rak þa wr Lande/Rænte fra Ryke/og reiste sidan heimaptur. Litlu einu þar epter/ Deydu þesser tueir Brædr og Modur draparar einu Herfeligum Dauda. Hier vm talar Daniel / og seiger/at Konguren mot Sudrenu mune mz ogrynne Her innfalla i Rykit Kongsins mot Nordrenu/og Sigr winna.

Seleucus Keraunus Ptolomeus Philopator

EPter Dauda Ptolomei Euergetis/bruggu þr sig til Strydz/Seleucus Keraunus/og Antiochus hin̄ mykli/ sm̄ voru syner Gallinici/Enn i widurbunadenu sialfum andadist Seleucus Keraunus/ þui ward Antiochus at hrada ferd sinne fra Babylon/og hallda fram wpptekinu Stryde i mote Ptolomeo syne Euergetis/ sm̄ nefndist Ptolomeus Philopator. En̄ Ptolomeus Philopator sigrade Antiochum hinn mykla og hanns Herlid. F

Erudice

Þad seigir Daniel hier/at syner Gallinici munu reidast/og draga i mote Ptolomeo Philopator. En̄ Philopator mun yfervinna þa/og werda af þeim Sigre Drambsamr. Þuiat þesse Philopator gaf sig sydan til Lauslætis munadar/og drap Drottningu sina Erudice(sem war og hn̄s Syster)fyrer saker einnrar Stelpu sm̄ hn̄ elskade.

Antiocus Magnus Ptolomeus Epiphanes

Enn Antiochus hin̄ mykle/at fraföllnum Philopator/safnade Lidzafla ad nyiu/i mote Syne Philopathors/sa hiet Ptolomeus Epiphanes/hn̄ war þa Barn ad alldre/fiögra edr fim̄ wetra. Og so sm̄ þat skiedr þegar Herrarner hafa Fiarhalldz mein̄/þa sabundu sig i mote Epiphane adrer Konungar mz Antiocho/einkum Philippus i Gricklande/williande skipta mz sier Lande hins vnga Ptolemei. Þar mz war i Landenu sialfu Osampycke og Sundurlynde/Gydingar fiellu og einnen honum i fra/til Antiochum. G

Af þui seiger Daniel hier/ad Kong Antiochus mune koma aptur/og at marger munu wppryfa i mote þeim wnga Epphiphanes/ so ad Armlegger Sudursins/þat er þeir Höfudzmen̄ Epiphanis sm̄ hn̄ hafdi i Phenice og i Gydingalandi og til Jerusalem/þeir munu ecki kunna at standa/helldr wan̄ Antiochus þesse Lönd

dII. Hn̄ kom og i þat werduga Land/til Jerusalem/þa weittu Gydingar honum styrk/til at vtdryfa m̄z øllū Høfudzmen̄ Epiphanes. Þar fyrer veitte Antiochus Gydingum myklar Sæmder/og gaf þeim storar Gafur
H og Fryheit.

Enn sm̄ hn̄ liet sier ecki hier m̄z nægia/helldur hugdist og ad vin̄a vnder sig Egiptaland/ þui bad Ptolomeus Epiphanes Romueria vm styrk. Þa hlaut Antiochus af ad lata/ og giørde frid vid Ptolemeum Epiphanem/og gaf honum sina dottur Cleopatra/ en̄ ei af godum huga/helldr (so sm̄ Daniel hier seiger) honum til fordiørfunar. Þuiad m̄z þessu Giptarmale sin̄ar Dottur/ hugde hn̄ sier ad svipta hn̄ Rykenu/ En̄ Drottningen og þr Egiptsku sau vid þessu

Romueriar

Cleopatra

Þui næst heriade hn̄ vm Eyiar Asia Landz (so sm̄ Daniel hn̄ seiger) og van̄ margar af þm. En̄ Romueriar komu honum i mote/ og raku hn̄ til baka/flettu hn̄ godum Kyrtle/hart nær øllu Asia Lande. Þar epter snere hn̄ heim/ og for i Persiden/villiande sækia mikid fie/ i mustere Elamidis. En̄ Landz folkit var vppe
I og slo hn̄ til Daudz og allt hn̄s Herlid. So bleif hn̄ i framanda Lande/og vard huerge fundin̄.

N NV hafde hn̄ adur fyrre/ þa þr Romuersku sigrudu hn̄/gefid i Gysling Romuerium sin̄ son Antiochū at vidrnefne Gøfga/þan̄ yngsta/og fyrerlitnasta. Epter fall Antiochi tok hn̄s son Seleucus Philopator Kongdom/ ein̄ fyrerlitligr madr/sm̄ Daniel seiger hier/ betr fallen̄ til Bysueins og fouita en̄ til Kongs/fra-
K de og eingen Høfdinglig nie Man̄domlig Verk/ lifde og ecke leinge

Seleucus Philopator

Þa komst Antiochus hin̄ gøfge m̄z leynd af Rom/ Og þo hn̄ være fyrerlitin̄/og alldrei ætladr til Kongz Tignar sm̄ Daniel seiger/þa læddist hn̄ þo fram̄/og m̄z fyrerheitum/flærd og føgrum ordum/vard hn̄ Kongr Þesse er sa seinaste Kongr/vm huern Daniel skrifar/þ gøfuga goda barnid/ sm̄ allt van̄ m̄z slægd og suikū lygū og prettum/ei so sm̄ Kongr/ helldr so sm̄ ein̄ ærulaus skalkr. Þuiat hn̄s kyndugleike var flupr og ohæferskr/og skam̄adist syn einskis/og ei skeytte hn̄ vm neina fidseme. Vegna slyks skalks og illmen̄is/er þsse Syn hellst skied/ Gydingum til huggunar/huerir þsse Antiochus skyllde plaga med allzkyns plagum

Antiochus Epiphanes hinn Grim̄e

So sm̄ hn̄ hafde nu Rykit fengit m̄z sinne slægd/so leitade hn̄ vid/ med þeirre sømu List at komast yfer fleira. Og af þui at Egiptalandz Kongr/sa hiet Ptolomeus Philometor/hn̄s Systurson/var a Bernsku alldre/Þa liet hn̄/sm̄ hn̄ villde vera Vørdslumadr (edr Vmbodzmadr) syns Systursonar/og tok vnder sitt Valld Borgirnar i Syria/Phenice og i Gydingalande. Enn þa Høfdingiar Egiptalandz krøfdu þessara Borga aptur/þa villde hn̄ þær ei lausar lata. Þar hofst þat Strydit/vm huert Daniel talar hier/ad hn̄ so sm̄ annad Vatzflod mune yfer falla yfer Armlegg Egipskra/ þat er/Høfdingia og Herluga Philometoris/þuiat han̄ vann Sigr a þeim.

Ptolomeus Philometor

Þessa Slægd liet hn̄ sier ecki nægia/hn̄ huxade og eirnen at koma vnder sig øllu Egipta lande/giørde Sætt vid Høfudzmen̄ Philometoris/ Liet sm̄ hn̄ giørde allt þetta/sm̄ eirn trwr Vørslumadr/synum Systursyne til goda. Med slykum Kyndugskap/dro hn̄ (so sm̄ Daniel seiger) m̄z litlu Lide inn i Egiptaland/ Þui þr opp letu fyrer honum øll Borgarhlid/ so sm̄ ødrum truum Kongsins Vørslumañe. En̄ hn̄ sette vppa sig Koronuna/ og giørde sig at Konge i Eiptalande/greip/Rænte og ruplade allt Egiptaland/m̄z slykum Suikum/(so sm̄ Texten seiger hier) huad eingen af hn̄s Forueðrū feck m̄z vallde giørt/og dro sydan heim aptr i sitt Ryke.

L En̄ þa Philometor Kongr var varen/og hn̄ tok Rykisstiorn/þa leitade hn̄ epter at na synu m̄z Vallde/Og so bioggu bader þesser Kongar sig til Bardaga. Enn sm̄ sa gøfuge Suein̄nen Antiochus sa þat/at Philometor munde verda honum yfersterkare/þa breytte hn̄ epter vanda/og ladade til syn m̄z Fiegiøfū marga/ suo ad Philometoris eigid folk fiell til Antiochum/og þess vegna vrdu marger i Hel slegner/ Þo vann hn̄ ecke Rykit at helldr. Þui næst giørde hn̄ Sætt enn aptr at nyiu vid sin̄ Systurson/samneytte honum/ og talade m̄z hn̄ vnder Bordum/og villde giarna en̄ einu sin̄e komast i Egiptaland. En̄ þeir trwdu honum ecki so sem fyrr/Og so sm̄ Daniel seiger hier/þa huxudu bader Kongarner huer an̄an at fordiarfa/m̄z yferuarpe fridargiørdar.

Antiochus hinn Gøfge

M Antiochus for nu heim i Ryke sitt/m̄z ogrynne fiar/og a veigenum/vard hn̄ fyrersinn Kyndugskap in̄latinn i Borgena Jerusalem/þar Rænte hn̄ Musterit og Borgena hørmuliga/ so sm̄ þar stendr Maccab. i.
N Og Daniel seiger hier/at hn̄ mun setia sitt hiarta i mote þeim Helga Sattmala.

Tueimur arum hier epter/ þa hn̄s Lygar og Pretter villdu ecki nu leingr duga/hugde hn̄ m̄z Herskillde at vinna Egiptaland/og for Herfør i mote synum Systursyne/eigi nu so sm̄ Vørslumadr/helldr so sm̄ opin-
O ber fiandmadr. Enn Daniel seiger hier/at þat mun ei luckast honum so sm̄ fyrr. Þuiat Romueriar/huerier ad voru Philometoris Kongs Vørslumen̄ og Verndarar/epter hn̄s Fødurs Testamte/þr sendu ein̄ Radzherra/hn̄ hiet Marcus Popilius/m̄z Herlide/til Antiochum/og badu honum ad vikia af Egiptalande. En̄ hn̄ villde hier neyta sin̄a Lista/og vysade þeim Romuerium fra sier m̄z føgrum ordum/og kuadst villa radgast þar vm m̄z synum vinum. Marcus Popilius Markade/m̄z staf/er hn̄ hafde i hende/eirn Hring i Sandinum i kringum Antiochum/þar hn̄ stod vid Stoen/og sagde. So seiger Radit i Rom/Vt yfer þen̄an Hring skalltu ecki styga/ fyrr enn þu gefr Andsuar/ huert þu villt helldr hafa Ofrid edr Frid. Þa vard Antiochus at fara i burt m̄z Sneypu/og heim i sitt Land.

Marcus Popilius

P Þa gieck þad (hid wonda) yfer Jerusalem/og yfer Gudz hws/yfer hn̄s þionustugiørd/og hn̄s Folk. Þui at hn̄ gat huerge an̄arstadar sualat sin̄e Reide/nie hefnt sin̄ar Smæ̈nar/nema a Gude og hn̄s Ryke. Og marger Ogudliger men̄ wt af Gydingum/hialpudu honum/og hielldu sig til hn̄s. Þar til at Gud vppuakte honū i mote/Judam Maccabeum og hn̄s Brædr/so sm̄ ad wier getum i viij Cap. og Daniel seiger hier i Textanū.

Judas Maccabeus

# Sa Tolfte Capitule Danielis
af D. Mart. Luth.
vtlagdur



SA xij. Cap. hlyder mz öllu vppa Antachristen/vnd' nafne Antiochi/ z vp a þennan seinasta tyma a hueriu vier lifum. Þar fyrer er hier ongrar Frasagnar ad vænta. Helldr tiluijsar og seiger þ hreina Euägeliu einu og sierhuerium liosliga/nu a þessu tyma/huer ed sie sa sañe Antachristuren/sm̄ at sig hefr vpphafit yfer alla Gude/ og eñ hefr skeytt vm Kueña æstina/þat er/Hiuskaparbandit/Helldr fyrerbodit þat/Og þar i staden vppfyllt Heimen mz Hiagudadyrkan sins Gudz/ og liotum Holldsins girndum/og hefr Fiesiodum og Audæfum Heimsins vtbytt og skipt et ct. Þuiad Kuenna æst kallast ecki/sa liote Girndar brune/Helldr merker þat eirn ærligan og sidsamligan Kiærleika til Kuiñuar/ huer n Gud hefr skapad og Bodit/sm̄ er hiuskapar bandit/Med þui at Propheten/ reiknar þetta fyrer hann mesta Glæp Antachristsins/ad hñ hirdi ecki vm æst Kuennanna.

Huer ed sie sañe Antiochus Kuenna Ast

Vier hefdum giarna sied/at einhuer annar hefde tekit sier fyrer hendr þessan Cap. og vtskyrt hañ allan vorre Tru til styrkingar/og til ad vppuekia þa von i oss þess vors Hialprædis og Endurlausnar dags/ sm̄ nu er ad söñu nalægr. Eñ af þui þat er ei skied/þa vilium vier hier mz giefa ödrum tilefne at huxa betr vm skilning þessa Texta.

Fyrst stendr þar liosliga i nidurlage Ellefta Cap/ad epter Antiochum/þa mune vera eñ annar tyme fyrer höndum/so at þesse tolfte Cap. kann ecki at vnderstandast vm Antiochum/mz þui at þat skal vera annar tyme/Enn huad a þeim ödrum tymanum skie skal/þat bodar Eingillen hier/ og seiger.

## Og sa Konguren mun giora huad hñ vill

PAd er/Hñ mun ei vndergiefen vera neinum Lögum nie Lærdome/helldr mun hñ sialfr vera Lögen/og huad hñ vill /þat hlytur Lögmal at heita/slykur Kongr i hueriu hellst Ryke sm̄ hñ er/þa er hñ olydanligr Vykingr/Eñ i Rykenu Christi( vm huert Daniel talar )i hueriu meñ eiga Christo/fyrer Truna hlydner ad vera/ þa er slykr Tyrannus edr Vykingr i önguañ mata lydande.

Hier er nu Pauen mz synum Lit og einkeñe liosliga vtmaaladr/ sm̄ i synum Decretalibus skamast syn ecki ad seigia/At allar Kirkiur og Throna eigi hñ ad Dæma/Eñ hñ eigi ecki af neinum Dæmdr at wera. Og i Cap. Solitae. stendr so/So sm̄ Solen er yfer Tunglenu/so er Pauen yfer Keisaranū. Eñ huar Yferualldz tignen er/þar er og Valldit til ad bioda/hinum ödrum ber skylldan til ad hlyda.

Scrinium pectoris So vil eg/ So byd eg/ miñ vilie skal ganga fyrer greiner allar

Hier vt af hrósa hñs hrosnarar/og kalla Scrinium pectoris/þat er/J Hirslu hañs hiarta er folgen öll Lög. Jtm/Sic volo/sic iubeo/sit pro ratione voluntas. Og i þeim Cap. Si Papa. Þo at Pauen leidde til Heluijtis oteliande Sæler/þa skal þo eingen dirfast at seigia/ Huad giörer þu?

Þetta allt saman er ecki at eins so kient og lært/helldr bera hier verken sialf ritne vm. Þuiad ecki er Keisaren sialfur Keisare/helldr Pauen/huerium Keisaren er vndergiefen sm̄ annar þienare/so at hñ hlytur ad kyssa a hñs fætur/mz öllum synum Lagariette. Þetta hefr og S. Petur fyrer sagt/ Ad koma mundu þeir sm̄ lifa epter sialfs þra girnd edr vilia/mz huerium ordum hñ vtleggr þesse ord Danielis( hñ mun giöra huad hann vill.

## Þui næst seiger hñ

## Hñ mun taka sig vpp/ og forhefia sig yfer allt þad s̄ Gud er/og i mote þm̄ Gude allra Gudaña mun hñ hrædeliga tala/og þat mun honum luckast/ þangat til ad Reiden er vte.

EJns þa vtmaalar Pauen sialfan sig/þa ed hñ hrosar sier i synum Decretis/ad hñ sie yfer Heilagre Skript og vt af synu Paualigu sæte/hliote hun stadfestu og myndugleika at medtaka. Enn myklu framar audsyner hñ þetta mz Verkenu/Þuiat þeir sm̄ vt af skriftinne hafa nockurn tyma i mote honum talat/ þa hefr hañ alla bannfært/Fordæmt og i Ellde brent/ so sm̄ adra Villumenn og Fiandans Börn/og þetta giörer hñ eñ dagliga. Og Papistarner læta alldrei af at kalla/þat Christelig Kirkia (Pauans )sie yfer Skriftiñe. Þad kallar hier Daniel at tala hrædelig ord i giegn Gude alra Gudañ. Og honum hefr þetta luckast/og þetta hefr ordit riett at heita/af Gudz Reide/yfer þeim ofacklæta Heime/so sm̄ S. Pall seiger/Tess. ij. Gud mū senda þeim Kröptugan Villudom/so ad þeir true Lygunum.

Pauen stærer sig ad hñ sie vppyfer Heilagre Skrift

Ad tala hræderliga i giegn Gude allra Gudaña

Þuiad adrer Tyrannar/þeir hafa ofsokt Gudz ord ouitandi/ enn þesse giörer þad vijsvitande og viliande/setur fram og les þa helgu Ritning og Gudz ord/huers Herra hñ vill vera/enn fordæmer þat þo so sem annan Diöfuls Lærdom/hueruetna þa hñ sialfr vill. Þui lætur hñ kalla sig eirn Jardneskā Gud/Ja /Gud allra Guda/DROTTEN allra DROTTNA/Konung allra Konga/Ecki sliettan Mañ/helldr so sm̄ nockurn Guddoms blending/edr Guddomligan Mañ/so sm̄ Christr sialfr er Gud og Madr/huers Vicarium hañ helldr sig/ og enn ædra

Hædingar nöfn Pauans

SO hefur S. Pall ij. Thess. ij. Cap. þennan Texta Danielis lesit/Þar mun opinber verda sa Syndarinnar Madr og Glötunar sonur/huer ed sig vpphefr og setur vpp yfer allt og i mote öllu þui sm̄ nefnist Gud edr vegsamast. Og situr i Mustere Gudz/og syner sig so sm̄ Gud. Þuiat yfer Gudz veru og Tignaruellde kañ eingen sig at forhefia/Helldr yfer þañ nefnda/predikada/vegsamada Gud/þad er/yfer Gudz Ord og Gudliga þionustugiörd edr Sacramta.

Madr Syndariñar

Madr Syndariñar/og Glötunar sonur/kallast hñ ecki þui at eins/at hñ er fyrer sialfan sig eirn Syndare og forglatadr/edr eirn einugis personuligr Syndare/Helldr sa sm̄ er eirn almeñeligur/þat er/sa sm̄ adra dregur mz sier i Synder og Glötun/So sm̄ Villumeñ og Vykingar villa og fordiarfa mz sier Lönd og Lyde. Slykan seiger Heilög Ritning verit hafa/Jeroboam Kong/þat hñ hafi kient Jsrael at Syndga/edr lætit hñ syndga mz sinne nyrre Gudz þionustu giörd.

j Syndsamligt Embætte Pauās

Slykt syndsaligt Embætte hefur Pauen mz tueñu mote framit. Fyrst i þui/at hñ hefr insett og skickat margar nyiar Gudz þionustugiörder/so sm̄ hier seirna seigist/ i sinum Mausim/sm̄ er/Aflaat/wijgt Vatn/ Akall Heilagra/Pilagrimsgöngr/Brædralag/Mukastietter/Messur/Föstur/Helgehölld et ct. Enn nidurbrotit og saurgat þa riettu Gudz þionustugiörd/sm̄ er Gudz ord/Truan/Sacramten.

ij allar skiepnr hefr Pauen mz Syndū saurgat Tymañ Laganna

J annan mata/at hñ hefur þuingat Christna meñ med otölulegum setningum / og giört þar Synd sem Gud villde öngua Synd vera læta. Söngt at seigia/Hñ hefur so nær allar skiepnr Gudz saurgat med Synd/ Þuiad Smiör at eta/Egg/Ost/Miolk/Kiöt/þat var Synd þa og þegar hñ villde/huerra hluta Gud hefr fo vnt oss mz frelse hreinferdugliga og an Syndar ad neyta. Daga og tyma hefur hñ og so mz Synd saurgat/ þuiat hueruetna þegar hñ villde þa vrdu menn Föstur og Hatyder ad hallda/og a þeim tyma war Synd

ad neyta

